þessi vitni; 2.) ad forsvara, ad ei hafi viljad halda þessa skilmála; 3.) til ad heyra sitt Paastand uppá Contractar-rof og Prócess-kostnadar betalíng, allt undir endilegann dóm; og 4.) ad heyra þá gjördu Besigtelses Forréttíngu og ofanálag á Vodmúlastødum med dómi upphafid. Á fyrra þíngstad Siblholti mætti Páll fyrir innlegg, og prótesteradi ad vitni væru afheyrd uppá munnlegt og ófullkomid umtal þeirra Eiríks, edur tølud ord fyrir meir enn ári og 5 vikum sídan, hvad útþrykkilega bannad væri í Nl. 1—13—23, m. v., hvorr Artikuli Talsmadur Eiríks uppástód, einúngis ætti ad skiljast um ærukreinkjandi ord, hvad Rétturinn fyrir Interlócútoríum samþyckti. Þad stefnda vitni Valdi Sigurdsson, qvedst ei hafa heyrt á samtal þeirra Páls og Eiríks, og kunni því eckért um þad hermda loford Eiríks uppá Pál ad vitna, annad enn hvad hann af ødrum heyrt hafi, ei heldur segist hann muna sig þad af Páls munni heyrt hafa. Móti þeirri sinna dags stefnu ad Krossi, prótesteradi Páll einnig. 1.) Vegna þess, hann þóktist ei vera stefndur ad heyra á þeirra vitnisburd, hvorra nøfn hvørki vóru innfærd í Original-stefnunna, ei heldur í þá honum þar af meddeildu copíu, heldur tjáir þau sídar tilsett vera. 2.) Konu sína einnig í tjedri sók, ad vitna sér á móti, óløglega stefnda. 3.) Ad sér sé stefnt fyrir Contractar-rof; því ein ófullkomin rádagjørd og laust



lauſt tál kunni ei, eptir Nl. 5 — 1 — 1. 3. 7., fyrir Contract ad álitaſt, ei heldur þau innſtefndu vitni á móti Nl. 1 — 13 — 23 ad afheyraſt; uppáſtendur því, ad ſtefnan verdi, greindra og fleiri orſaka vegna, er tjed Exceptións innlegg med ſér ber, af Réttinum ólogleg álitin. Petra Páls uppáſtand var, ad odru, enn hvad konu hans ſnertir, med Interlócútorió ógrundad álitid, og dœmdur ſkyldugur til ſtefnunnar ad ſvara. Tvo af þeim innſtefndu vitnum bera eckért þeſſari ſok til upplyſingar; þridja af þeim ſegiſt aldrei heyrt hafa á ſamtal Páls og Eiríks um tjed málefni, og kunni því eckért annad um þad hermda loford og ſkilmála millum Páls og Eiríks ad vitna, enn þad þau í lauſu tali af ymſu fólki heyrt hafi, án þeſs ad géta nafngreint hvar, edur af hverjum. Arni Þorleifsſon leggur til, ad Eiríkur hafi ſagt ſér, ad hann flytti ei frá Vodmúlaſtodum, nema Páll léti ſig ſkilja vid þá ofanálagslauſa. Páll hafi og eitt ſinn ſagt vid ſig, ad ſér þœktu þeir koſtir þúngir, ſem Eiríkur uppáſtœdi, neſnilega, ad hann ſkyldi ſkilja ſig vid Vodmúlaſtadi ofanálagslauſa, og Páll hafi ſagt: hann viſſi ei hvort heldur hann flytti ſig ad Vodmúlaſtada hjáleigu, edur ad Dal. Vitnid Gudlaugur Bergþórsſon qvedſt af Páli heyrt hafa, ad Eiríkur hefdi viljad ſleppa ofanálags-fri, enn ecki ſegiſt vitnid muna ad Páll hafi þad undirgengiſt. Endilega hefir Preſturinn Síra Sigurd-

urdur Øgmundsson med sinum skriflega og fyrir Réttinum uppleſna eidfeſta vitnisburdi, vitnad: ad Páll hafi ad sér nærverandi í Kroſs-kyrkju þann 19da Octóbr. 1796 sagt: Nú, Eiríkur! ef Hann vill ſtanda upp frá mér, ſkal Hann fá Oddakotid; hvar til Eiríkur hafi ſvarad: fái eg ad vera ofanálags-frí vid Vodmúlaſtadi, gjøri eg pad, hvad Páll eptirgaf ad ſinum helmíngi, en þad vildi ecki Eiríkur antaka, nema hann væri frí vid þad ad ollu leiti; þá hafi Páll ſagt: Núnú! pad verdur ad taka jørdina út ſamt.

Nú uppáſtendur Løgþíngisſkrifarinn Eiríks vegna: 1.) ad Páll verdi dæmdur ad halda þad loford og ſkilmála, er hann inngengid hafi vid Eirík, og þeſſi þar fyrir fríkénniſt ad betala nockurt ofanálag á Vodmúlaſtadi. 2.) Ad Páll betali honum fyrir ſin óhaldinyrdi og Contractar-rof eptir Nl. 5—8—3 og Landsl. B. 1. 3.) Betali Eiríki framlagdann koſtnadar-reikníng fyrir flutníng og húſabyggíng á Oddakoti, hvorr reikníngur kom uppá 31 rdl. 28 ſſ. 4.) Ad þar Vodmúlaſtada úttektar forrétting hafi gjørd verid móti Nl. 1—6—16 útþryckilegri fyrirſkrift einaſta med 2ur mønnum, verdi ógvild af Réttinum álitin, m. m., og 5.) ad Páll betali Eiríki í málskoſtnad 8 rdli. Hér í móti ſvarar Páll: 1.) ad hann hafi fullnægt því lofordi, er hann hafi gefid Eiríki med ad eptirgéfa honum alt ofanálag

análag þess helmings sér hafi tilheyrt af Vodsmúlastødum; meira hafi hann hvorki kunnad ad lofa edur eptirgéfa, Eiríkur ei heldur bevísa ad meira honum lofad hafi. 2.) Ad Þórdar Gíslasonar hálflendu hafi Eiríkur lausri sagt fortaksleust, hvad hann mundi ei gjørt hafa, hefdi hann gjort þad sín vegna, og þar fyrir hafi vid sjálft legid, ad hálflendan væri odrum bygd. 3.) Þar nú Eiríkur stefni sér fyrir Contractar-rof, krefst Páll af honum ad framleggja þá Contract fyrir Réttinn; géti hánn þad ecki, beujerir hann ad Eiríki tildæmist, ad svara sér drjúgum bótum fyrir óløglega málsýfingu samt kost og tæríngu til sín og konu sinnar.

Hér uppá dæmir Sýslumadur V. Thórarinsson Eirik fríann frá ad betala þad ofsanálag Vodmúlastada, sem gjort var þann 12ta Júlí s. á. af þeim 2ur af Sýslumanni þar til skickudu monnum, og þá af þeim gjorda útteektar forrétting ónýta og ólogleoa, þar sem sú þar vid brúkada adferd sé mótstrídandi Nl. 1—14—1 og s. bók. 16 kap. Páll betali til Eiríks í Prócess-kostnad 2 rdl. kúr. innan 6 vikna frá dómsins dató, undir adfor ad logum. Frá þessum dómi appellerar Páll til Logþingis-réttarins, og fær af Vice-logmanni Grøndal þar til géfna stefnu, eptir hvorri þeir stefndu mæta hvorr med sitt forsvar, ákjærur og uppástand. Páll á Vodmúlastødum mætir sjálfur í Réttinum og framlagdi á

inn-

innlegg undir sinu egin nafni, hvar af þad eina var Historia edur species facti, med hinu ødru vill hann demonstrera, ad sá af Sýslumanni V. Thórarinssyni gengni Héradsdómur i þessu máli, hafi med ollu undanfellt ad uppádæma þann hellsta og viktugasta sakargiftar stefnu-pósi Eiríks Einarssonar, sem var þad af honum nefnda Contractar-rof, hvert Eiríkur hafi því sidur gétad sannad, sem hvorgi finnist bevísod hún hafi nockurntíma milli sin og hans verid inngengin, heldur enn hitt, ad Páll hafi neckru sinni lofad Eiríki meira af tjedu ofanálagi eptir ad géfa, enn hans hálflendu tilheyrdi; ecki heldur hafi Eiríkur gétad sýnt edur bevísad, ad hann hafi af Þórdar parti sin vegna uppstadid, svo Páll þess vegna væri skyldugur ad betala Eiríki, þessum parti tilheyrandi, ofanálag. J þessu sama innleggi vill Páll einnig vísa: ad sú útteektar-forrétting, er Sýslumadur V. Thórarinsson sjálfur fickadi 2ur monnum ad gjora og meta ad logum, húsa, túna, garda og qvílda ofanálag, hafi svo vel i tilliti til eldgamallrar praxis hér i landi, sem Forordningarinnar af 24da Júlí 1789 i ollu gyld og logmæt verid, annars hefdi Sýslumanninum V. Thórarinssyni borid, ad láta hana, þar um bedinn, af sér og Þórdi Gíslasyni, verda i alla stadi logum samqvæma. Þessari sinni meiníngu til enn nú frekari styrkingar, heldur hann sér til Rescriptisins af 11ta Apr. 1781, eptir hvorju þessi

vesæla útteftar-forrétting heyri undir þær sakir, sem afgjøraſt ega í ſkjótheitum, m. m., er Páll hér framtelur ſinu máli til forſvars og vidurhalds, ſvo vel móti Sýſlumanni, ſem Actóri í héradi, og hans Fullmektugum. Þeſſum og fleirum Páls áſtædum, hefir Sýſlumadur V. Thórarinsſon leitaſt vid ad kollkaſta og ónýta med þeſſu: 1.) Utteftar-forréttínguna á Vodmúlaſtødum ſegir hann logum gagnſtæda, þar hún eptir ádurnefndum Nla. articulum, hafi átt ad ſké med 6, enn ei 2ur mønnum, og þar ſyrir uppáſtendur hana, ſem annad illegalitet ipſo jure nullam. En ſína þar til géfna ſkickun til 2ja, enn ei fleiri útteftar-manna vill hann þar med rétlætiſt: ad hann hafi ei þeckt ſkyldu ſína, ad útnefna adrá edur fleiri útteftar-menn, enn Páll hafi ſjálfur tilnefnt og umbedid, og ſé því hans, en ecki ſitt, ad ábyrgjaſt, hvort ſú af þeim, ſvoleidis umbedna útteftar-forrétting yrdi ad legum gyld edur ógyld metin. Forordnínguna af 24da Júlí 1789, gjørir hann ad einni Exceptión frá Lege generali, komi því einúngis kirkjum og Preſta-gótſi vid, hvad hann vill med þar til fundnum rokſemdum ſýna og ſanna. Svo vel af ſjálfum Próceſſinum, ſem Páls Logþíngisréttar ſtefnu petito, ſegir hann, ollum ſjáanlegt, ad Páll hafi ei einaſta aldrei neitad Eiríks framburdi um þad heila ofanálag, og tilſtadid hans framburd í bádum ſínum Exceptións-inniegsjum mót ſtefnunum í héradi.

Ei-

Eiríks hér fyrir Logþíngis-réttinum til-setti Talsmadur Sýslumadur Espólín, fram-kom med einn nýjann Vitnaleidslu-act, áhræ-randi þetta mál, hvorr saminn og gjordur er af Sýslumanni V. Thórarinssyni; eptir þad honum var af Páli Gudmundssyni híngad stefnt fyrir rángann dóm og Procedeur í mál-inu, hvar fyrir Páll og próteseradi ad þessi Vitna leidslu-act, á móti sínu Próteſti, í hér-adi genginn, yrdi nú af Réttinum antekinn, allrahelſt þar ſér ſé ecki af vidkomendum híng-ad ſtefnt, hann ad heyra, til hans ad svara, edur hér af þeſſum Rétti nockurn dóm þola eptir honum. Þar í móti meinar Talsmadur Eiríks, Sýslumadur Espólín, ad þar tjedur þíngs-act þéni Eiríki til forsvars og málinu til upplýsíngar, og sé tekinn í laga leyfi, egi þetta Páls Próteſt ad engu aktaſt, m. m.

Logþíngisſkrifari Th. Nicólaiſon vill í framlogdu innleggi sýna, ad þær sér af Páli géfnu ſakargiſtir fyrir rángſleita Prócuratión og framhald í málinu í héradi, ſeu í allann máta óſannar, og Páll ſjálfur hafi miklu fram-ar ſér, leitaſt vid ad forvilla Réttinn, vilji hann neita því hér, ad Eiríkur hafi ſín vegna flutt af Þórdar Gíſlaſonar parti, edur upp-ſtadid frá honum, hvad Logþíngisſkrifarinn ſegir í Próceſſinum nógſamlega ſýnt og demonſtre-rad, ſvo vel, ſem hitt: ad Páll hafi honum þar fyrir lofad álagsfrium ad vera fyrir alla Vodmúlaſtada ábúd. Þetta ſama uppáſtanda

einnig Sýslumönnunum V. Thórarinsson og J. Espólín, er þeir einnig leitast vid ad sýna og sanna, í sínum fyrir Réttinn framlögdu innlegnum.

Þá þetta allt var náqvæmlega samanborid vid Hérads-prócessinn, og þau þarí afheyrdu vitni, gétur Rétturinn hvergi fundid, ad nockur lögmæt Contract hafi verid milli Páls og Eiríks inngengin, hvar med sá fyrri hafi skuldbundid sig til, ad géfa Eirík álagsfríann, nema fyrir því álagi, er honum bæri ad svara ofaná sínn helmíng jardarinnar. Vel hefir Eiríkur í fyrstunni, þá Páll nefndi vid hann ad standa upp af Vodmúlastødum (eptir Prestsins Sira Sigurdar Ögmundssonar eina vitnisburdi) því neitad, nema hann fríadist frá, ad betala þad heila ofanálag. Ad Eiríkur hafi einasta uppá þessa skilmála, og ei annara orsaka vegna, þeim parti Vodmúlastada laustum sagt, er Þórdi Gíslasyni tilheyrdi; því hefdi hann þad einúngis gjört Páls vegna, bar honum ad segja Þórdi jördunni lausri, med því skilyrdi, ad Páll fengi partinn eptir sig, allrahelst hefdi hann átt vissa von á ad sleppa med því, en ei ødru móti, frá hans gjørandi ofanálagi, finnst hvergi bevísad, ad Þórdur gjørt hafi; þott Eiríkur hafi látid nockra menn af sér heyra, ad hann ei med ødru móti stædi upp frá Páli, og þessi hafi, eptir þad Eiríkur í fyrstu qvadst ei med ødru móti vilja uppstanda, sagt: ad

ſér Þæktu Þeſſir Eiríks kóſtir þángir, og þetta hafi ſídan boriſt eptir þeim ári, almenníng, án þeſs nockurr hafi nockurntíma heyrt af Páls munni, ad hann hafi þá ſomu antekid, heldur látid á ſér merkja, ad hann mundi, heldur enn ad þeim gánga, flytja ſig annadhvort ad Dal edur Vodmúlaſtada, hjáleigu; þá kunni hann því ſídur ſakfellaſt eptir þeſſu af Eiríki í almenníng úrdreifda óbevíſada rykti, hvørr enga adþreyngjandi orſök ſýniſt hafa haft til adhøfda Próçeſs ad fyrra bragdi móti Páli, uppá ſvo veikann og óviſſann grundvoll.

Hvad þá umtviſtudu úttektar forréttíngu á Vodmúlaſtodum ſnertir, hvørja Sýſlumadur V. Thórarinsſon hafdi ſiálfur ſkickad, og ſídan ónýta og ólöglega dæmt; þá finnur Rétturinn beggja partanna áſtædur og forſvars grundi ad vera af þeirri náttúru, ad bádir hafi nockud til ſíns máls. Pérdi Giſlaſyni ſé ei heldur hér med betekid, heldur ſtandi frítt fyrir ad begéra af Sýſlumanni V. Thórarinsſyni nýja úttektar-menn ad logum, hvørt gjorandi álag ecki þarf framar enn Pérdur vill, ad liquideraſt med þeim flutníngs- edur koſtnadar-reikníngi, ſem innfærdur finnſt í Hérads-Próceſſinu; ad ollu þeſſu athugudu, dæmiſt rétt ad vera:

Sá í Héradi af Sýſlumanni V. Thórarinsſyni gengni Dómur ad

Krossi í Landeyjum þann 27da Nóv. sídstlidna, skal hér med vera aldeilis upphafinn, og betali þvî velnefndur Sýslumadur til Páls Gudmundssonar fyrir kost og tæríngu, samt Próress kostnad fyrir þessum og Hérads-rétti 10rdl. Cour. En Eirîkur Einarsson betali fyrir óréttvísa og naudsynjalausa máls-hýfíngu 32 ßa. til fátækra î hreppnum; skulu allar þessar bætur vera loknar fyrir nærstkomandi Michaels-messu undir adfer og Execútíón ad lögum.

Þessi Dómur var opinberlega î Réttinum upplesinn, ad vidverandi og áheyrandi Sýslumanni J. Espólín og Lögþíngisskrifaranum Th. Nicólaisyni, hvar frá hvörigur þessara til stadar verandi appellerar.

## Num. XIV.

Sama dag var fyrir Réttinum fyrirtekin sú sök, er her var þann 20ta hújus útsett til þessa dags, og þar, Sýslumadur J. Helgason enn nú af Réttinum þrisvar upphrópadur ecki mætir, og Actor Sýslumadur V. Thórarinsson hefir eckert vídara uppástand

-stand í sokinni ad gjora, var hún til dóms upp-
tekin. Ut supra.

M. Olafsson.

## Num. XV.

Sama dags eptirmiddag, settist í Rettinn Løgmad-
ur M. Olafsson, og assagdi í Sýslumanns J.
Helgasonar máli, eptirfylgjandi dómslúttníngu:

Af þeim í þessu máli gengna Próceß og dómi á Borgarhøfn í eystra parti Skapta-fells-sýslu, þann 18da Maí 1796, fyrir þennann Rétt framløgdum, er audsjáanlegt, ad Sigrídur nockur Bjørnsdóttir hefir þann 11ta Jan. s. á. barn í heiminn fædt, ad hvørju hún lýsir fødur ad vera bródur sinn Gudmund Bjørnsson, hvorju hann þverneitar. Til ádurnefnds 18da Maí lætur Sýslumadur J. Helgason Hreppstjórann Asgrím Hallsson innkalla bædi þessi systkyni fyrir sinn haldandi Rétt á ádurgreindum stad, og eptirspyr: 1.) um hvørs þeirra aldur fyrir sig? var hún þá 34 ára, en hann 21 árs gamall. 2.) Adspurdi Sýslumadur hana um faderni hennar ádur umgétna barns? lýsti hún þá enn sem fyrri Gudmund bródur sinn, hvar til hann enn nú svaradi nei, og baud sinn eid ad sverja fyrir þad. 3.) Var hún adspurd: hvørt nockur rok eda líkur þar til hefdi? svarar nei; hann einnig ad sama spursmáli spurdur?

ur? svarar nei; framar adspurdur: hvort hann á hennar sidu vissi nockud þad, er þessa barnsfaderrnis lÿsingu systur sinnar kynni ó-sanna gjora? svarar líka nei til þess, m. m. Gudmundur stendur fast á sinni barnsfaderrnis neitun, og uppástendur ad fá sinn fríunar eid. Sÿslumadur J. Helgason setur því nærst þessum bádum systkynum einn og hinn sama Talsmann, Hreppstjórann Arna Brynjólfsson, sem alvarlega prótesterar Gudmundar fríunnareids afleggíngu, án þess ad framfæra nockud þad, sem þéna kunni Sigrídi til málbóta, edur fá nockra nÿja upplÿsíngu í sökinni. Ad útkljádri Actión í henni, fell þá dómsályktning af Sÿslumanni J. Helgasyni: ad Gudmundur Bjørnsson mætti sig med eidi befría fyrir því barnsfaderni, er Sigrídur systir hans hefdi uppá hann lÿst, þó mætti sá hans dómur ecki exeqverast, svo lengi vidkomandi Løgmanns ályktan ecki þar til kjæmi, hvort þessi eidur mætti gjørast edur ei. Í stadinn fyrir, ad innstefna þessum dómi fyrir s. á. Logþíngis-rétt, og flytja þángad bædi þessi systkyni, sellur Sÿslumadur J. Helgason uppá ad sækja um Kóngsins allranádugustu Resolutión: 1.) um þad, hvort Gudmundur megi afleggja sinn fríunar-eid. 2.) Hvörnig hún, ad honum aflegdum egi ad álitast. Þessa hans allraundirdánugustu Ansøgning af 14da Sept. s. á. innsendi þad danska Cancellie þann 14da Janúari 1797 til

til Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar Erklæringar, sem dat. er 7da Sept. 1797, hvar af má sjá medal annars, ad optnefndur Sýslumadur ei einasta hefir forsómad ad innsenda med þessari sinni ádur umgétnu allraundirdánugustu Forestillingu til Kónglegrar Hátignar, þann í málinu gengna Dóms-act, heldur og í móti þess háloflega danska Cancellies gjordu Foranstaltning 1789, gleymt ad gésa þessa í hans Sýslu angéfnu, þó enn nú óbevísudu Blódskammar-sök, Hra. Stiptamtmanninum til vitundar, og þar hjá einnig forsómad, ad innstefna heunt eptir Hans Hávelborinheita honum géfnu befaling af 1ta Aug. 1797, til eins Extra-logþíngis-réttar; því hefir Cancelliid látid sér þóknast, undir sídstlidnum 2rum Decembr. ad befala: ad Sýslumadur J. Helgason skyldi fyrir þessa hans, logum mótstríđandi, medferd á ádurnefndum saka-persónum justitialiter tiltalast. Hvorsvegna Hans Hávelborinheit, Hra. Stiptamtmadur O. Stephánsson hefir undir sídstlidnum 15da Maí, hér til beordrad Sýslumann í Kjósar-sýslu S. Pétursson þad sama ad giora, hvar til velnefndur Sýslumadur hefir og hjá Vice-Logmanni B. Grøndal úttekid þann 25ta s. m. eina Logþíngis-réttar stefnu, med hvorri Sýslumadur J. Helgason híngad stefnist, til ad standa til Rétta fyrir alla hans forsómun í þessu máli, og þola endilegann Logþíngis-réttar dom, til straffs, sekta og

 full-

fullkomins málskostnadar. Fyrir Próceſſins ſkuld, ſtefnaſt og ádurnefnd ſyſtkyni, er þetta mál afris, áſamt þeirra Actóri og Defensóri í hèradi, med þeirri Clauſula, ad engiun þeirra hafi ſér nockurrar ſogdags-leggíngar ad vænta í þeſſu máli. Sá í Syſlumanns S. Péturs-ſonar forfollum af Hra. Stiptamtmanni con-ſtitúeradi Actor, Syſlumadur V. Thórarins-ſon, framlagdi í Rèttinn oll þau í hond-um hafandi Skiol og Dócúment, er honum kynnu til eptirréttingar og ſakarinnar upplyſ-íngar ad þéna; og uppáſtód Syſlumadur Vig-fús ad Syſlumadur J. Helgaſon yrdi, (auk þeſs, er fyrrnefndur Syſlumadur S. Péturs-ſon hafdi í inngéfnu innleggi fyrir þennann Rètt uppáſtadid) dæmdur ad borga til Jú-ſtitz-kaſſans, þá 10 rdli., er Hra. Stiptamt-madur O. Stephánsſon hafdi þar af lofad ad betala Syſlumanni Lydi Gudmundsſyni, eptir anteknum koſtnadar-reikníngi, fyrir ad láta híngad ſtefna í ſídſtl. Júníó Syſlumanni J. Helgaſyni, m. m., er Actor uppáſtód. Af þeirri hèr fyrir Rèttinn framlagdrar ſtefnu uppáſkrift 2ja ſtefnuvotta, er ſjáanlegt ad hún hefir Syſlumanni J. Helgaſyni á hans heim-ili auglyſt verid, og honum þar af Copía med-deild ſídſtl. 21ta Júní, og ad hún einnig hef-ir hinum odrum híngad ſtefndu perſónum birt verid; enginn þeſſara mætir utan Asgrímur Halloſon, ádurnefndra ſyſtkyna tilſettur Actor í hèradi, fyrir eitt aſſokunar-brèf, hvar fyrir hann

hann ei, í ezin persónu, hér fyrir þessum Lögþingis-rétti mætt géti.

Að öllu þessu Sýslumanns J. Helgasonar málefni gaumgjæfilega athugudu, gétur Rétturinn ecki, í þeim hér framloadu Documentum, nockurt atriði fundið í Sýslumanns J. Helgasonar, annars lögum gagnstæðu, medferd, breytni og forsómun, er Réttinn sái nóglega yfirbevísad um, að Sýslumadurinn hafi þetta gjört af einhverri þrjótiku við Hra. Stiptamtmannsins ádur umgétnu befaling, ecki heldur af forakti við Kóngsins Logmál, heldur mætti sýnast, sem hann hafi meir af dofinnskap, hyrdu- og eptirþánka-leysi látið þessa Delinqvent-sok dragast eina tíð eptir adra; sýnist ei heldur órímileat, að Sýslumadurinn Jón, sem nú er kominn á áttrædis aldur, hafi qveinkað sér við og várla treyst sér til, að færa þessar saka-persónur híngað til Lögþingis-réttarins, yfir svo lángann, torsóktann, já, optsinnis ófærann veg, og hafi því í úrrædaleysi fallið uppá það fávíslega fyrirtæki, að fá kónglega Resolútión útverkada um það sama, er hann syrifcam vissi, að hans Yfirdómari mundi að logum úrskurda, nær sokinni yrði innstefnt fyrir ædri Rétt. Þetta Sýslumanns J. Helgasonar barndómslega fyrirtæki sýnir einnig, að hann hefir hvorki ætlað að draga dul á brot þessara systkyna, edur skjóta þeim undan réttvísri laga hegníngu; því annars mundi hann ei hafa tilkynnt Kon-

úng-

finnglegri Hátign þeirra angéfna misgjörníng. Hvorsu sem nú öllu þessu er varid, þá kann þessi Sýslumannsins J. Helgasonar lánga forsómun og medferd á saka-persónunum, ecki fría hann frá því í lögum þar vid lagda straffi; dæmist því fyrir rètt:

Sýslumadur J. Helgason skal fyrir sinn allt ofleugi varandi og lögum gagnstæda undanndrátt, ad innstefna þessari Delinqvent-sök fyrir ædri Rétt, sem og fyrir sinn ótérlega umgángs máta í henni, betala eptir Forordníngunni af 3ja Júní 1796, samanborinni vid NL. 1-5-8., til nærsta Hospítals 100 rdlr. Cour., og þaraðauki þá Sýslumanni Lýdi af Jústitskassanum lofúdu 10 rdli., og þeim honum í móti fyrir Logþíngis-réttinum tilsettu Actoribus, 6 rdli. í Prócess kostnad, kost og tæríngu; skulu allar þessar bætur loknar vera innan nærstkomandi Michaels-messu.

Þessi Dómur var opinberlega í Réttinum uppesinn, og var enginn af vidkomendum til stadar verandi, heldur allir af Logþínginu burtreistir.

*Ut supra.* M. Olafsson.

NUM.

## Num. XVI.

Annó 1798 þann 6ta Augústí, setti Lögmadur Magnús Stephensen Lögþíngis-rétt ad Leirá í Borgarfirdi, til Dóms uppsagnar í Oróa-málinu milli Prestsins Sira Sæmundar Hólms og Chirúrgi Hallgríms Backmanns. Til Lögþíngis-réttarins þénustu vóru nefndir undirskrifadir Lögréttu-menn, af hvörjum Bókþryckjarinn Schagfjord aflagdi Lögréttu-manns eid, en hinir hafa ádur svarid; affagdi svo Lögmadur M. Stephensen eptirfylgjandi Dóm í ádurnefndu máli:

A Uppstigníngardag þann 25ta Maí 1797 bar í Bjarnarhöfn innan Snæfellsness-sýslu þad umtals efni til, sem mál þetta af rís, og sem eptir framkomnum gögnum, vitnum og málspartanna ákjærum virdist þanninn varid: Presturinn Sira Sæmundur Magnússon Hólm flytur þennann dag messu í Bjarnarhafnar kirkju, vid hvorja Chirúrgus Backmann er þá nálægur med ödru fólki. Prestur lýsir þar í annad sinn af stólnum med fátæklings hjóna-efnum til ektabands, en



en Chírúrgus Backmann kallar upp í kirkjunni og segir: svei þeirri fregn! Prestur advarar þá, sem meinbugi viti á þeirra hjónabandi, ad segja til þeirra í tíma; þar til ansar þá Backmann: þeir kunna ad vera margir, eda: þad vita margir, og enn kallar hann upp þegar Prestur bodar blessun af stólnum, segjandi: þad vil eg gjarnan þyggja. Þessa ótilhlýdilegu mælgi undir opinberri þjónustugjord í kirkjunni hefir Presturinn Síra Hólm medal annars átalid, og Logþíngis-rétturinn finnur hana því hneixlanlegri og saknæmri, sem hún brúkud er af meiri-háttar manni, þó ordin séu oll meinláus, vettar minni virdíngu og sidsemi enn ber undir hátídlegri Embættis-gjord, mátti jafnvel sipa fyrir Prestinum og erta hann til móds midt í hans Embættis-verkum, og verda háskalegt eptirdæmi þeim einfoldu og ójáltsu, er taka vildu sér snid eptir þessu, og innleida þann ólídandi ósid, hvorn stjórnleysi vídar heyrist ad hafa nært, ad þvætta fram í, eda skéggræda undir prédikun og Catechisatión og þar med glepja fyrir annara athygli. Líklega hefir þessi Chírúrgi Backmanns yfirsjón og ordid tundrid, sem glæddi óvildina strax eptir milli Prests og hans. Síra Hólm gengur eptir Embætti fridsamur og gódur inn, ad vanda, í stofu Chírúrgi, dvelur þar góda stund; í stofunni heyrist þrusk og hávadi, Prestur hleypur fram úr henni ódfluga, og sem ódur og afmindadur af reidi, hattlaus og med pyrr-

ik

ik sitt í hendi, stockur upp og slær út hond- unnum; vitnid Tjørfi Oddsson, segir Prestinn hafa útkomid eins og undann ófridi, en Back- mann kom strax á hæla Prestinum. Strax og Prestur kom út, snyr hann sér til Back- manns og segir: sládu mig nú, og Backmann svarar: manar þú mig til þess? mannþraung var nockur úti á stéttinni, þar snertir hond eda knefi þess reida Backmanns, Prest, sem snyst vid og fellur ofan fyrir stéttina í svadid, er reistur á fætur af tveimur; Prestur bidur fólkid ad minnast hvad sér sé gjort og lysir sídar meir í innleggi til Réttarins ad Stadar- backa undir lit. S., ad Backmann hafi veitt sér stórt hogg á spjald-hrygginn, svo hann vid fallid fram af stéttinni hafi reynst innvortis. Adurnefndur Tjørfi ber, ad Prestur hafi út úr stofunni komid blár og nockud þrútinn á auganu og utantil vid þad, hafi þó ei svo lengi inni verid, ad á þeim tíma mikid þrútna kynni; fleiri vitni bera um þenna bláma og þrota á Presti um qvoldid, en flest vitnin eru svo óreglulega og óskilmerkilega afheyrd, svo oldúngis ecki confronterud og þeirra svør svo ógreinileg, ei heldur tekin til allra spurnínga, eda sem her, þeirra útlegging um vafasama og mótsegjandi andsvara pósta krafin, og svo lítil ástundan Dómarans til sannleiksins upp- gotvunar ad finna, ad Logþíngis-rétturinn finn- ur ógjorlegt eptir svo óvandadri vitnaleidslu Dóm ad fella til þyngsla útláta. Þad er ann- ars

ars vitnad, ad Sira Hólm hafi í ædi og brædi hreytt fram ítrekudum formælingar ordum yfir Backmann og hans hús, bædi strax um daginn í Bjarnarhøfn og eins um qvøldid á heimleid, já, gyfurlegum formælingar ordum, óvidurgvæmilegum ad heyrast af munni nockurs Sálu-sorgara, sem eptir Nl. 2—4—6 skyldast ødrum fremur til ad sýna Trúarinnar ávexti í grandvørum lifnadi, med tilliti til 2—9—27, 2—11—1 og 6—2—5.

Svo ófullkomin, sem ádursogd vitnaleidsla er, má þó af henni med miklum líkum ráda, ad Prestinum Sira Hólm hafi inni í Backmanns stofu mætt ófridur mikill og hardhnjaskr, hvorr þeirra sem þetta vakid hefir, því hvorugur þeirra Sira Hólms og Backmanns hefdu af alls engu ordid afar-reidir, síst Prestrinn hám-ódur, blár og bólginn, hans ord í ædinu sýnast og ad vitna um medtekin hogg, Tjørsi nefnir hans flótta, sem undan ófridi, þrusk og hávadi heyrdist í stofunni, Backmanns reidugleg hend var til hans á stéttinni útrétt, og hann hafdi þegar í kirkjunni eguet Prest nockud til reidi, svo þegar vitnin ecki fullhermdu hvad Sira Hólm ákjærir, hefir Løgþingis-rétturinn nú þegar svo miklar líkur fyrir sér, ad hann í alla stadi forsvara kynni, ad skylda Chirúrgum Backmann til ad hreinsa sig med sáluhjálpar-eidi eptir Nl. 1—14—6 frá þúngum áburdi Sira Hólms í hans innleggi fyrir Héradsréttinn, þar merk-

idu

ndu bókstafnum S. og treystist hann ei þar til, þá ad bæta fyrir sérhvort honum veitt högg, spark, jardvarp, eptir NLa. 6—7—8 þremmum 6 lódum sylfurs, en Stefnandinn Síra Hólm getur med engu laga yfirskini mótmælt þeim eidi Backmanns, hvorn hann sjálfur eptir allt þetta hefir; sem fullverduaann medtekid til Altaris, þessvegna sem fullfródann trúarbragda játara, eids helgidóms þeckjara og samvitsku-vidqvæmann mann, einkum þar hann í héradi tjáir sig hafa krafid Backmanns frí-unar-eid, en ei fengid þetta innfært af Sýslu-manni; en þar óvildin er nú svo ódum vaxin nefndra manna á milli, og Backmann, eptir vitnada lángvarandi gódfýsi vid Prest sinn, sem fleiri, nú er tekinn til ad mædast og særast, af Prestsins eins lángvarandi óvild til hans, eptir því sem hann í innleggi sínu til þessa Log-þíngis-réttar nú hefir talid líkur til, finnur Rétt-urinn þad enn þá samqvæmara laganna anda, fyrr ad grenslast, sem náqvæmast verdur, eptir sannleiksins upplýsíngu af sem flestra vitna framburdi, heldur enn málspartur nockurr leid-ist í freistni vid afleggjandi eginn eid, hvorr þó aldrei kynni hér odrum enn Chirúrgó Back-mann ad leyfast.

Vidvíkjandi stefnandans ákjærum til Hér-ads-dómarans Sýslumanns Finns Jónssonar, út af ásakadri partiskri vitna yfirheyrslu, ó-naudsynlegum þíngbalds lángdrætti, forakti Prestsins próteſta, ósannsýnum skrifaralaunum,

 bráf-



brúkudum hótunum og hreckvísum skélfingum til Prestsins málshalla en fylgis hans mótparti, hefir Presturinn ad því leiti minna ad ákiæra vitnaleidsluna, sem hann á Stadarbacka þíngi þann 3ja Nóv. í innleggi merkudu lit O. hefir tjád sig ánægdann med Sýslumannsins yfirheyrslu vitnanna og skickanlegheit þann dag, og þann 7da Nóvembr. siálfur fráfallid Backmanns náúnga yfirheyrslu, en þar á mót ad því leiti meira, sem vitni onnur vóru óreglulega yfirheyrd, og Prestinum enginn frestur géfinn til ad stefna fleiri vitnum til sannleiksins upplýsingar, heldur málid hálfprófad dæmt honum til áfellis og storkostlegra fjárútláta; því meira hefir hann og ad kjæra, sem hann med innleggi fyrir Stadarbacka Hérads-rétt, audkenndu bókstafnum O. hefir vottad, ad Héradsdómarinn hafi neitad sér um ad innfæra í þíngbókina prótest sitt mót Backmanns framhalds Contrastefnu, og hans Talsmadur fyrir þessum Logþíngis-rétti, ad Sira Hólms krafa um Backmanns eid, hafi í héradi ecki fengist innfærd, hvorju Sýslumadur Finnur ei hefir hér mótmælt; því meira, sem Presturinn hefir framlagt Sýslumanns Finns eginhandar bréf, innihaldandi ógnanir móti hans Appelli, og vorun vid gildru fyrir hann lagdri, vardandi máské hans Prestshempu, medal annars af þeirri orsök, ad Prest þenna skorti vit og peninga, og hellstu menn séu honum mótfallnir, allt eins samvirkulaust

og

og smánandi sinn höfund, eins og grundvallar-
lëust, á medan hann ecki sannar þau illmæli,
ad sé styli dóma ærlegra Dómendra, ellegar
minndud óvild spilli málum og rëtti manna og
svæfi Dómara samvitsku. Í stadinn fyrir 4
mk., sem Hérads-dóma kostar ad útskrifa ept-
ir N. 1 — 23 — 7 hefir Presturinn Sira Hólm,
med framlagdri Copiu af sínu bréfi til Sýslu-
manns, uppáskrifadri af 2ur mönnum, viljad
sýna, ad Sýslumadur hafi hér fyrir medtekid
5 rdli., og bréf hans til Prests qvitterar fyr-
ir tilsenda peninga, en nefnir ei þeirra upp-
hæd. Sýslumadur Finnur Jónsson hefir
contra-stefnt Sira Hólm til Logþíngis fyrir
grófa og ósanna stefnu-memorials pósta, neit-
ar ad hafa medtekid nockra peninga fyrir pró-
cessinn, vill taka þá tilsendu peninga í annur
skuldaskipti, svo hann af ofteknum skrifara-
launum verdi vitalaus, og misgrunar Prest-
sins framlagda peninga-bréf, sem falskt, bid-
jandi þess vegna ad þad verdi sér mót, sam-
hljóda Copiu frá Rëttinum afhendt, sem hon-
um má eptirlátast; verdur því ei ad svo stöddu
um þenna póst ályktad. Presturinn hefir ann-
ars í allri málsókn sinni í ljósi látid ofmikla
sávitsku í Rëttargángi til þess, ad hann sé
framvegis sær um einn ad sækja þetta mál
löglega án Talsmanns adstodar. Því dæm-
ist rëtt ad vera:



Chírúrgí Backmanns kirkju-mælgi í Bjarnarhøfn á Uppstigníngardag 1797, vísast til hlutadeg-anda Há-yfirvalds álits eptir Kóngs-bréfinu af 26ta Júní 1782 §. 3 og Prest-sins Síra Sæmundar Hólms formæl-íngar-ordum til hans geistlega Varnar-þíngs. Sjálfu Barsmídar-málinu er hér med aptur í hérad heimvísad til nýrr-ar og løglegri ransóknar frá rótum, nýrr-ar afheyrslu þeirra vitna, sem Prest-urinn Síra Hólm finnur naudsyn til vitnisburdar løglega ad kalla, annara enn konu, barna og tengda-dóttur Chí-rúrgí Backmanns, (sem frá vitnis-burdi í þessu máli, sèu øll frítekin) samt til nýs endilegs dóms. Skal allt þetta gjørast á kostnad Héradsdómarans Sýslu-manns F. Jónssónar, af odrum dóm-ara enn honum, sem vidkomandi Amt-manni þóknast þar til ad útnefna. Prestinum Síra Hólm standi frítt fyr-ir ad útvega sér Amtmanns Vibes skickun til hentugs Dómara, ad prófa løg-

løglega Sýslumanns Finns vitnaleidslu adferd, teknu skrifara-laun samt adrar Dómara adgjørdir og Prótócolls-hald í þessu máli, ad því leiti í Héradi upplýsast þarf til endilegs dóms, en hann sæki undir eins um skynugann Talsmann til ad færa mál þetta sín vegna, þar hann sjálfur er of fávís í løgum þar til fundinn. Hérads-dómur Sýslumanns F. Jónssonar, genginn ad Stadarbacka þann 11ta Nóv. 1797, sem dæmir Prestinn Síra Sæmund Hólm í 10 rdla. málskostnad til Sýslumanns, 4 rdla. til Backmanns, 84 ß. til Jústitíts-kassans og 64 ß. til sama kassa fyrir fíblslega málssókn, en frítekur Chirúrgum Backmann fyrir øllum ákjærum Prests í þessu barsmídar máli, veri sent ódæmdur. Ósæmileg sneidyrdi í innleggjum Síra Hólms til Løgþíngis-réttarins, valin Sýslumanni Finni og Chirúrgó Backmann, sømuleidis íll atqvædi Sýslumanns Finns í hans innleggjum, valin Presti Síra Hólm

og hans Rádgjafa, séu daud og ómerk. Bóta ákvardan fyrir misjafnar og grunsamar Dómara adgjördir í þessu máli, bídi þar til Hérads-prófid um þær er fullfekid, en í málskostnad gjaldi Sýslumadur Finnur Prestinum Sira Hólmjordsl. Conr., innan 6 vikna frá auglýsingu þessa Løgþingis-réttar Dóms, undir adför eptir løgum. *Ut supra.*

M. Stephensen.

G. Schagfjord. Sveinbjørn Þórdarson.
Olafur Pétursson. Hermann Olafsson.



Eptirfylgjandi
## Bréf og Kauplýsingar
vóru fyrir Løgþingis-réttinum upplesnar
Annó 1798.

1. Affalsbréf Sigridar Olafsdóttur eptir hennar ektamanns Gunnlaugs Sigurdssonar fullmakt, á Studlakoti 4 hundr., liggjandi í Holtamanna hrepp, til Prestsins Sira Gísla Thórarinssónar, fyrir resterandi skuldir eptir Løgþingis dómi 1786, nefnilega, 11 fjórdúnga smjörs

sinjörs og 10 rdli. Cróner 72 ßa., dat. 23ja Júlí 1787.

2. Afsalsbréf Prestsins Síra Þórdar Brynjólfssonar fyrir hönd Jómfrúr Þórdísar Gudmundsdóttur, á 5 hundr. í jördunni Gérdum í Landeyjum, til Valgérdar Gudmundsdóttur fyrir 24 rdli. Cróner, dat. 29da Júní 1797.

3. Kóngleg Confirmatión uppá Testament hjónanna, Lopts Sigvaldasonar og Gudrídar Sigurdsdóttur, ad hvort þeirra, sem lengur lifir, skuli vera þess afdauda einasti erfíngi, dat. 5ta Maí 1797.

4. Kóngleg Confirmatión uppá Gudmundar Stephánssonar á Utskálum í Gullbríngusýslu gjörda Fledförings Contract vid Prestinn Síra Bjarna Pétursson, dat. 13da Maí 1797.

5. Afsalsbréf Helgu Jónsdóttur á Jörva 30 hundr., innan Dala-sýslu, til Prestsins Síra Jóns Olafssonar ad Stad á Reykjanesi, fyrir hjá henni innistandandi arfa-góts eptir hennar sál. mann Magnús Einarsson, dat. 9da Octóbr. 1758.

6. Afsalsbréf Hra. Sýslumanns Jóns Jakobssonar á jördunni Yrnafellskoti í Eyjafirdi og Mödruvalla-sókn, samt Vidirnesi, til Sgr. Jóns Sigurdssonar á Urdum fyrir 120 rdli. Specie, dat. 22ann Sept. 1797.

7. Affalsbréf Múkaþverár-klausturs Administratoris Magnúsar Thórarinssonar á jördunni Gardi í Olafsfirdi til Sýslumanns Jóns Jacobssonar fyrir 150 rdli., daterad 30ta Martsí 1798.

8. Affalsbréf Kaupmannsins í Grundarfjardar Kaupstad Ernst Matthias Heidemanns, eptir hafandi fullmakt, á jordunni Túngu liggjandi í Skutulsfirdi innan Isafjardar-sýslu 24 hundr. med 4 kúgyldum, til Kaupmanns Olafs Thórdarsonar Thorlacius, fyrir 500 rdli. DC., daterad 20ta Júlí 1797.

9. Affalsbréf Sýslumanns Þórdar Bjornssonar á jordunni Gardi 8 hundr. ad dýrleika, liggjandi í Mývatns sveit, til bóndans Marteins Þorgrímssonar, sem hæstbjódanda fyrir 150 rdli. 6 ß. kúr., dat. 14da Apr. 1798.

10. Affalsbréf Mad. Gudrúnar Thórarinsdóttur á jordinni Kambsmýri 5 hundr. innan Þíngeyjar.sýslu til Mr. Sigurdar Bjarnasonar fyrir 30 rdli. Courant, dat. 19da Febr. 1796.

11. Affalsbréf Mr. Jóns Jónssonar á 10 hundr. í Sámstodum innan Mýra-sýslu til Otta Ingjaldssonar fyrir 50 rdli. specie, dat. 1ta Júní 1781.

12. Affalsbréf Prófastsins Sira Eiríks Vigfússonar á jordunni Litlakroppi innan Reykholts kirkjusóknar 16 hundr. ad dýrleika, til

til Mr. Brynjólfs Hjálmarssonar fyrir 50 rdli. krónur og 50 rdli. kúr., dat. 7da Júní 1797.

13. Afsalsbréf Mr. Jóns Jónssonar á 8 hundr. í Vindheimum, liggjandi í Tálknafirdi innan Bardastrandar-sýslu, til Mr. Haldórs Jónssonar fyrir 96 rdli. Courant, dat. 24da Nóvembr. 1797.

14. Afsalsbréf Prestsins Síra Erlendar Hannessonar á Lækjarskógi 24 hundr. innan Dala-sýslu, fyrir 120 rdli. Specie, og Lækjarkoti liggjandi í Borgar hrepp, fyrir 40 rdli. Cróner, til Mr. Þorbjörns Olafssonar Gullsmids á Lundum, dat. 30ta Sept. 1797.

15. Afsalsbréf Sýslumanns Jóns Jónssonar Espólin, á hálfri jordunni Hraunlondum 15 hundr. liggjandi í Breiduvíkur hrepp, til Kaupmanns Hra. Hans Hjaltalíns, sem hærstbjódandi fyrir 68 rdli. Courant, dat. 1ta Apr. 1797.

16. Makaskiptabréf Mr. Jakobs Þorvaldssonar á jordunni Svertingsstodum 20 hundr. innan Eyjafjardar-sýslu, til Mr. Arna Markússonar, fyrir 20 hundr. í Kaupángi innan somu sýslu. Somuleidis selur Mr. Arni kaupandanum Mr. Jakob 10 hundr. í Kaupángi fyrir 112 rdli. 48 ßa., dat. 1ta Maí 1798.

17. Afsalsbréf Asmundar Sigurdssonar á 5 hundr. í jordunni Tjornum í Saurbæjar hrepp og Hóla kirkju-sókn, til Mr. Páls Jóns-

Jónssonar, fyrir 40 rdli. Courant, dat. 28da December. 1795.

18. Makaskiptabréf Mr. Páls Jónssonar á Æsustödum í Eyjáfirdi 20 hundr. til Gottskálks Olafssonar, fyrir eignarhlut hans í jordunni Aungulstodum 18 hundr., dat. 7da Júní 1797.

19. Afsalsbréf Sýslumanns Vigfúsar Thórarinssonar vegna Conrectors Brynjólfs Sigurdssonar á hálfri jordunni Vodmúlastodum 25 hundr. liggjandi í austur Landeyjum innan Rángárvalla-sýslu, med tilheyrandi afbýlum, til Hreppstjórans Mr. Þórdar Gíslasonar, sem hærstbjódanda fyrir 235 rdli. 60 ßa. dat. 19da Octóbr. 1796.

20. Kóngl. Confirmatión uppá Testament hjónanna Jóns Jónssonar á Melkoti og Kristínar Hrómundsdóttur konu hans, ad hvort þeirra, sem lengur lifi uppberi þess afdauda eptirlátnu fémuni, dat. 13da Maí 1797.

21. Afsalsbréf Þorsteins Gudmundssonar til Mr. Vigfúsar Gullsmids á Stóru Galtardalstúngu med Litla Galtardal, bádum 50 hundr. innan Dala-sýslu, fyrir 310 rdli. specie, dat. 22 Sept. 1790.

22. Mr. Vigfús Fjeldsted lýsir innlausnarrétti sínum á hálfri Galtardalstúngu 19 hundr. og kotinu ytra Galtardal 12 hundr. af sinnar afdaudu konu erfíngjum, dat. 5ta Júní 1798.

23. Kaup-

23. Kaupmanns Bjarna Sigurdssonar Obligatión til Realisatións-Commissiónen uppá þá honum lánudu 6000 rdli., dat. 9da Dec. 1796.

24. Fyrrverandi Sýslumanns Haldórs Jacobssonar Caution med 30 hundr. í jordunni Felli í Kollafirdi, til Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar, fyrir þá af Realisatións-Commissiónen árid 1793, Vice-Logmanni Grøndal lánudu 100 rdli. med rentum, hvarfyrir nefndur Haldór Jacobsson hefir látid sig teikna, sem Cautiónista og Selvskyldner, daterud 7da. Júní 1797.

25. Afsalsbréf Sýslumanns Vigfúsar Thórarinssonar vegna Conrectórs Brynjólfs Sigurdssonar á hálfri jordunni Vodmúlastodum 25 hundr. liggjandi í austur Landeyjum innan Rángárvalla-sýslu med tilheyrandi afbýlum, til Mr. Páls Gudmundssonar, sem hærstbjódanda fyrir 235 rdli. 60 ßa., dat. 19da. Octóbr. 1796. Þessu kaupbréfi fylgir Sýslumanns Vigfúsar Thórarinssonar qvittering, uppá 235 rdli. 60 ßa., dat. 5ta. Nóv. 1796.

26. Afsalsbréf Davíds Jónssonar á Reidará í Lóni 6 hundr. ad dýrleika innan Austur-Skaptafells-sýslu, til Haldórs Þorleifssonar fyrir 25 rdli. specie, dat. 11ta. Mai 1795.

27. Gjafabréf hjónanna Bjorns Brynjólfssonar á fjórdúngi úr ablafé þeirra, þá annad-

hvort

hvørt þeirra burtkallast, til sonar þeirra Jóns Bjørnssonar, dat. 7da. Maí 1796.

28. Halls Jónssonar Testament á fjórda-parti hans fjármuna, ad honum og konu hans andadri, til bródursonar hans Magnúsar Magnússonar, ímóti ad hann þjóni þeim þeirra lífstíd, dat. 3ja Júlí 1797.

29. Afsalsbréf fyrrverand a Sýslumanns Halldórs Jacobssonar á Bólstad í Steingrímsfirdi 8 hundr. til Einars Jónssonar fyrir 140 rdli. kúr., dat. 16da. Martsi 1798.

30. Afsalsbréf Benedicts Jónssonar á jørdunni Brautartúngu 9 hundr. 40 áln. innan Borgarfjardar-sýslu med 1 kúgyldi, til Þorsteins Jónssonar fyrir 60 rdli 24 ß., dat. 2ann Júlí 1798.

31. Kóngleg Confirmatión uppá Testament hjónanna Jóns Benedictssonar og Jórunnar Þorgeirsdóttur, ad hvørt þeirra, sem lengur lifir behaldi þess afdauda gótsi, ef þeim verdur ei lífserfíngja audid, dat. 14da Júlí 1797.

32. Afsalsbréf Rafnkéls Arnasonar á 4 hundr. í eydijørdunni Sydri-Flatey, liggjandi í Einholts kirkjusókn innan Austur-Skaptafellssýslu, til Haldórs Þorleifssonar, fyrir 26 rdli. til specie, dat. 31ta Júlí 1797.

33. Afsalsbréf Þórarins Olafssonar á 6 hundr. í Raudabergi, til Jóns Sigurdssonar fyrir 30 rdli. til specie, dat. 7da Octóbr. 1797.

Eptir-

## Eptirfylgjandi Dócúment var, uppleſid:

Oddur Háldórsſon Vídalín, Kóngl. Majeſts. Sýſlumadur yfir Bardaſtrandar-ſýſlu, gjørir kunnugt: ad Beykir Mr. Þóroddur Þóroddsſon af Vatneyri, ſem ec af mér ad Saudlauksdal þann 8da Júní 1791, vegna þeſs þá uppá hann vitnada dryckjuſkapar og þaraf ſljótandi rádleyſu, dæmdur ad vera ómyndugur medan hann ſé ſvo áſigkominn; heſir mér nú aptur framvíſad vitnisburdi ſinna Sóknar-préſta, uppá ſina tilbærilega hegdun og ólaſtandi framferdi um nockur nærſtlidin ár, og þar hjá óſkad, ad ſá aptur ſin fríheit, og eg vildi tjedann Dóm upphefja, ſvo ſem nú eptir ſinu verulegu atqvædi útrunninn. Hvors vegna, ſem og í tilliti til Hra. Amtmanns J. C. Vibes ſendibréfs til mín af 24da Júlí nærſtlidins, ádur áminnſtur ómyndugs dómur yfir Monſr. Þóroddi, er af mér hér med oldúngis upphafinn og ad engu gjordur, þó fyrſt um ſinn til nærſthaldandi Manntals-þings ad Saudlauksdal 1798, þá gremdir vitnisburdir ſkulu leſaſt og prótócolleraſt í vidkomenda, ſém vilja, nærveru og áheyrn; og Monſr. Þóroddur í ſinum

sínum myndugheitum framvegis stadfestast, svo framt í þann tíma eckért nýtt þessu mótstædilegt uppkémur.

Til stadfestu undir minni Hendi og Signeti, ad Haga á Bardaströnd, þann 14da Septembr. 1797.

O. H. Vídalín.
(L. S.)

Upplesid í Retti ad Saudlauksdal, þann 19da Martsí 1798. testerar

O. H. Vídalín.

## Enn nú eitt Próclama upplesid:

Kallast hér med sub pœna præclusi & perpetui silentii ad mæta í Skipta-réttinum í Stickishólmi í Snæfellsness-sýslu innan árs og dags frá þessa Próklamatis Públikatíóns dato fyrir Logþingis-réttinum, Erfingjar, samt Credi- og Debitóres, og adrir vidkomendur í Stersbúi fyrrum Kaupmanns Didriks Hölters í Stickishólmi, sérhvorr med logleg skilríki fyrir því, þá umvarda kann, þá hverjum þeirra skal Réttur ské ad laga fyrirmælum.

Oxarár Logþingi, þann 21ta Júlí 1798.

F. Jónsson.
K. M. Sýslumadur í Snæfells-sýslu.

Rétt útskrifad af Logþingis-Réttar Prótócollnum Anno 1798, vitnar

Th. Nicolaison.

## Eptir begéring fylgir einnig svo lák-andi Próclama: (*)

Innkallast hér med innan árs og dags sub pœna perpetui & præclusi silentii Skuldaheimtumenn og Erfingjar Gudrídar, heitinnar Jónsdóttur, er deydi sídstlidid ár hér að Anaúnaustum innan Gullbringu-sýslu; þeir fyrri, ef vera mættu, til lögformlega ad sanna sínar krøfur, og þeir sídari til ad framkoma med lögleg skilriki um arfs tilfall sitt og ættfærslu. Hvorjir fyrir sig vildu fyrir mér, sem Skiptaforvaltara, mæta annadhvort persónulega, edur fyrir antekna Umbodsmenn med sín skjöl.

Nesi, þann 9da Júlí 1798.

S. Pétursson.

## Somuleidis eptirfylgjandi Appell:

Þar eg, vid ad hafa nú fyrst séd og lesid Hra. Lögmanns Magnúsar Olafssonar dóm í sökinni, milli Hreppstjórans Páls Gudmundssonar á Vodmúlastødum og bóndans Eiriks Einarssonar á Oddakoti, finn, ad hans dómur í nefndri sök, er, ecki eingúngis hvad mig snertir, sem Undir-dómara í þeirri

sömu,

*) Þetta Dócúment er aldrei fyrir Lögþíngis-rett framlagt, ne í Rettinum lesid, þess vegna ecki løgskickad Próclama.



sömu, Lögum og Rétti gagnstædur, heldur og
þad af velnefndum Lögmanni í áminnstri sök,
affagda Interlócútoríum, inniheldur ad minni
meiníngu skÿlausa Réttarneitun, og ad þar
hjá ecki finnst í Logþíngis Prótócollnum med
einu ordi áminnst þad skriflega Appell, er
Eiríks Talsmadur Hra. Sÿslumadur Jón
Espólín framlagdi í Réttinn hans vegna, enn
sídur þeir grundir, uppá hvorja því hefir verid
frávísad. Því declarera eg hérvid solenniter, uppá svo vel mín, sem ádurnefnds bónda
Eiríks Einarssonar vegna, eins Appell frá
nefndum Lögmanns Magnúsar Olafssonar
hofud-dómi í sökinni, sem frá því í henni afsagda Interlócútorió; hvort mitt Appell, eg
óska Hra. Logþíngisskrifarinn láti med Alþíngisbókinni in extenso þryckja.

Seltjarnarnesi, þ. 30ta. Júlí 1798.

V. Thórarinsson.

